# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, MAÍ 1898. Nr. 3.

## Uppstigningin.

Sálmr eftir séra Valdemar Briem út af Lúk. 21, 50—53.

(Lag: Ætti eg að láta linna.)

1. Sjá, hvar Jesús sjálfr stendr
síðsta skifti hér á jörð;
breiðir hann út báðar hendr,
blessar sína kæru hjörð.
Hér er einnig hjörð þín, drottinn;
hana líka blessa þú.
Bezt oss reynist blessan sú;
hún frá guðs er hjarta sprottin.
Breiðum móti blessan hans
blómstr visin kærleikans.

2. Sjá þú, lífsins sól upp stígr,
sveipar gulli himininn;
ljóss á vængjum fögr flýgr,
felr þó ei ljóma sinn;
dýrðargeisla sendir sína
sífellt yfir land og haf;
ljósi skæru ljómar af;
orðin guðs sem geislar skína.

Svífr upp til ljóssins lands
ljóss á vængjum andi manns.

3. Niðr guðs á fótskör föllum,
fögnum sigri lausnarans.
Hann er drottinn yfir öllum,
eilíft stendr ríki hans.
Guðs í borg á lífsins landi
lifir stór og tignarhár,
vegsamaðr eilíf ár,
engla drottinn allsvaldandi.
Snúum glaðir heim til hans,
heim í lífsborg frelsarans.

4. Dýrð sé guði! Drottinn lifir.
Dýrðleg hér er tjaldbúð hans:
Himininn oss hvelfist yfir;
há er kirkjan lausnarans.
Hárri salar hvelfing undir
himins skína ljósin öll;
ölturin hin fögru fjöll;
fótskör drottins grœnar grundir.
Lofum guð í heimi hans,
helgidómi skaparans.

---

## Kvöldmáltíðarsakramentið.

Prédikan út af 1. Kor. 11, 23—29, eftir ritst. „Sam.“*)

„Á þeirri nótt, er hann var svikinn.“ Þessi orð viðhefir Páll postuli í fyrstu málsgrein lexíu þeirrar, sem nú var upp lesin úr fyrra bréfi hans til Korinþuborgarmanna, og með þessum orðum gjörir hann grein fyrir tímanum, þá er hið blessaða sakrament kvöldmáltíðarinnar var innsett af frelsara vorum og drottni Jesú Kristi. Hinn dýrmæta, ógleymanlega pant síns kærleika rétti Jesús að hinum litla hópi lærisveina

*) Flutt í Winnipeg á skírdagskvöld síðasta. Prentuð hér fyrir áskoran nokkurra tilheyrenda.

sinna sama kvöldið, sömu nóttina, sem hann var svikinn af einum þessara lærisveina í hendr svarinna erkióvina sinna út í hina makalausu píslarsögu, er endaði með friðþægingardauðanum á Golgata. Postulinn sér ástœðu til að knýta endrminninguna um þessa gjöf frelsarans, sem mesta sælu og gleði hefir veitt kristnum mönnum af öllu í baráttu lífsins og dauðans um liðnar aldir víðsvegar um heim, við það, sem raunalegast og sárast var af öllu því, er fram kom við Jesúm á dögum hinnar jarðnesku holdsvistar hans:—það að einn af hans eigin útvöldu lærisveinum skyldi verða til þess að svíkja hann. Hin makalausa elska Jesú, sem knúði hann til að stofna þetta sakrament og liggr í því til eilífrar tíðar, birtist í allri sinni guðlegu dýrð, þegar þetta orðalag, sem hér kemr fyrir hjá postulanum, er viðhaft. En einkum verðr þó mikilleikr þessarar elsku drottins opinber, ef um það er hugsað, að Jesús vissi það svo vel fyrir, að Júdas myndi svíkja hann og það einmitt þetta sama kvöld,og að hann þó engu að síðr tekr hann eins og þá alla hina lærisveinana með sér til hins heilaga kvöldmáltíðarhalds, að Júdas með svikaráðið fastákveðið í huga sér heldr sér kyrrum í borðsalnum þangað til hinni nýju náðarmáltíð, sem Jesús stofnaði upp úr hinni gömlu gyðinglegu páskamáltíð, er lokið, og neytir af brauðinu og vínbikarnum ásamt lærisveinunum hinum eins og ekkert væri til hindrunar.

Að það sé rétt skilið, að Júdas hafi verið með í hinu heilaga borðhaldi til enda, ekki skundað út í nóttina fyrir utan til þess að ná saman við hina óguðlegu menn, sem höfðu keypt hann til hins hryllilega óbótaverks, fyrr en eftir að Jesús var búinn að innsetja sakrament kvöldmáltíðarinnar, það sést skýrt í guðspjalli Lúkasar. Því þar koma fyrir þessi orð frá Jesú undir eins og búið er að skýra frá innsetningunni: „En sjá, hönd þess, er mig svíkr, er á borðinu með mér.“—Það getr virzt undarlegt, að Jesús skyldi líða það, að maðr, sem hafði aðra eins óhœfu í huga eins og Júdas, væri með í borðhaldinu, líka eftir að úr því var orðið altarisganga í hinum nýja kristilega skilningi. Og líklega myndum vér allir telja það óhugsanlegt, ef þessi orð, sem þegar voru tilfœrð, stœði ekki svört á hvítu í sögu guðspjallamannsins á þeim stað, sem þau standa, undir eins á eftir innsetningarorðunum. Kærleikr frelsarans syndug-

um mönnum til handa er æfinlega enn þá miklu meiri, dýpri og víðtœkari. en mannleg hugsan getr ímyndað sér. Hann gjörir æfinlega, eins og postulinn tekr fram í bréfinu til Efesusmanna (3, 20), langt fram um það í kærleiksáttina, sem vér biðjum eðr skynjum, eftir þeim krafti, er í oss verkar. Það er enginn svo óverðugr, syndugr, óguðlegr, að Jesús sé ekki fús til þess að bjóða honum kærleika sinn, gjörvalla fylling síns frelsanda kærleika. Og þegar vér að eins í trúnni höldum þessu fagnaðarefni föstu, þá getr oss hœglega skilizt, hvers vegna Jesús leyfir, að Júdas sé með í kvöldmáltíðarhaldinu til enda. Frelsarinn vildi gefa honum þá sterkustu hvöt, sem til gat verið, til þess að sjá að sér, vakna til meðvitundar um hið voðalega ástand, sem hann var kominn í, opna augun fyrir þeirri skelfing, sem hann var að steypa sér í, læra að þekkja og hræðast syndina til dauða, sem hann var kominn fast að því að drýgja, og þar með þá líka gefa honum hug til þess með hinum almáttuga frelsiskrafti, sem lá og liggr æfinlega í gjöf kvöldmáltíðarsakramentisins, kærleikskrafti meistarans, að slíta sig lausan frá syndinni, burt úr glötuninni. Hér var hið síðasta tœkifœri fyrir þennan aumingja-mann til þess að sjá sð sér og með drottins hjálp að snúa við frá dauðanum til lífsins. Og einmitt svo fram úr skaranda tœkifœri, því á þessari hátíðlegu kvöldstund birtist kærleikr meistarans í sinni angrblíðustu og dýrðlegustu mynd. Ef nokkuð var til á himni eða jörð, sem komið gat forhertu mannshjarta eins og Júdasar til að vikna og flýja iðranda og biðjanda á náðir guðs, þá var það hér, í persónu Jesú, orðum hans, atlotum hans—og meðal annars og ekki sízt í hinni blessuðu sakramentisgjöf, sem frelsarinn hafði þeim öllum lærisveinunum búna í samsætinu með þeim þetta ógleymanlega skírdagskvöld. Frelsarinn vildi ekki hindra það, að Júdas fengi þetta makalausa tœkifœri honum til sáluhjálpar rétt á undan síðustu stundinni, þó að hann með sárri sorgartilfinning vissi það fyrir, að hann, þessi svikuli lærisveinn, myndi kasta því burtu frá sér. Og vafalaust var það þá líka tilætlan hans, að þetta skyldi verða lærisveinum sínum og öllum þeim, sem síðar meir víðsvegar um heim um allar komandi aldir heyrði söguna um kærleiksundr skírdagskvöldsins, æfinlegt ljómanda tákn þess, með hve sterkum og nærgætnum kærleika hann

fylgir syndföllnum mannssálum allan náðartímann á enda, og hve fjarri því fer, að hann hrindi nokkurn tíma nokkrum stórsyndara burtu frá kvöldmáltíðarborðinu.

En hins vegar er það auðsætt, hvílíkr sársauki það hlýtr að hafa verið fyrir frelsarann að hafa Júdas, fastákveðinn í því að svíkja hann, í návist sinni, í hópi sinna útvöldu, ástfólgnu vina, þetta kvöld, eins og það líka kemr skýrt út í sögunni hjá öllum guðspjallamönnunum fjórum, hvílíkum sorgarskugga það varpaði yfir sálir lærisveinanna allra hinna, er þeim fyrir bendingar þær, sem þeir fengu frá meistaranum svo að segja undir eins eftir að samsæti þetta var byrjað, varð kunnugt um svikræði það hið hróplega, er honum var búið úr þessari sérstöku átt. Og að því, er Jesúm sjálfan snertir, var það eins og steini, þungu dauðans bjargi, væri létt af brjósti hans, þegar Júdas loksins, að því, er virðist, mjög skömmu á eftir innsetning kvöldmáltíðarsakramentisins, yfirgaf samsætið og skundaði fyrir fullt og allt út úr borðsalnum á fund samsœrismannanna, sem með hjálp hans stóðu til þess búnir að framkvæma hið mikla ódáðaverk. Þegar Júdas er út farinn, þá segir frelsarinn í lofsyngjanda, sigrihrósanda fögnuði: „Nú er mannsins sonr dýrðlegr orðinn, og guð er í honum dýrðlegr orðinn.“ Og með þeim orðum byrjar hann hið mikla skilnaðarávarp sitt til lærisveinanna, sem er svo hjartnæmt, huggunarríkt og angrblítt, að ekkert er annað til þvílíkt. Það nær yfir meira en þrjá heila kapítula í Jóhannesar guðspjalli og birtist eins og sérstakt guðspjall, enn þá hærra en allt hitt;—guðspjallinu þar eins og lyft upp í þess hæsta veldi. Þegar frelsarinn þar er búinn að tala um hríð, þá býr hann sig til burtfarar úr borðsalnum og skorar á lærisveinana að standa upp. En það er eins og hann í þetta skifti eigi nærri því ómögulegt með að slíta rœðu sinni. Hann talar enn lengi, talar meðal annars um sjálfan sig sem vínviðinn, hinn sanna vínvið, og lærisveinana sem greinarnar á þeim vínviði, og bendir þar augsýnilega til sömu trúarlexíunnar, sem hann rétt áðr hafði verið að kenna þeim með innsetning kvöldmáltíðarsakramentisins, útskýrir þá lexíu, sýnir með þessari líking, þótt að eins sé óbeinlínis, aðalþýðing sakramentis þessa fyrir hina þáverandi lærisveina hans og fyrir hina óteljandi lærisveina hans á öllum ókomnum öldum. Hann bendir til

þess, að hann láti sitt líf, líf hins fullkomna guðlega kærleika, streyma inn í þeirra líf. Lærisveinslífið fær allan sinn kraft, allan sinn kærleik, frá honum—frelsaranum. Hann er lífgjafinn þeirra allra. Og á sama tíma, sem hann er að kveðja hinn litla ástvinahóp, lærisveinana, sem skyldi vera undirstöðusteinar í kristinni kirkju, til þess búinn að ganga út í píslardauða friðþægingarinnar, afhendir hann þessum mönnum í kvöldmáltíðarsakramentinu hina miklu gjöf, sig sjálfan sem lífgjafann, sig sjálfan sem hið eilífa líf, sig sjálfan sem fyrirgefning syndanna, sig sjálfan sem hið fullkomna réttlæti, sig sjálfan sem upprisuna frá dauðum, sig sjálfan sem pant þess, að þeim öllum, sem honum eru andlega samvaxnir, sé óhætt að hrósa eilífum sigri andspænis syndinni, mótlætinu, dauðanum og djöflinum. Í kvöldmáltíðarsakramentinu og ræðum þeim hinum dýrðlegu, sem standa í sambandi við innsetning þess á skírdagskvöldið forðum, streymir kærleikr guðmannsins Jesú áminnandi, aðvarandi, fyrirgefandi, huggandi, friðandi, gleðjandi til hins litla útvalda ástvinaskara, postulanna, og gegnum þá til hinna óteljandi syndugu mannssálna, sem síðar meir um allar komandi aldir myndi eiga andlegt heimili í kristinni kirkju.

Til þess að fá fullkominn skilning á helgidómi kvöldmáltíðarinnar, læra að meta verðmæti hinnar miklu gjafar syndugum mönnum til handa, sem í þessu sakramenti liggr, er nauðsynlegt að setja sig sem bezt inn í söguna alla, er gjörðist forðum á skírdagskvöldið, á þeirri nótt, er frelsarinn var svikinn. En þegar um það er að ræða, að fá skilning á þessu, sem dýpst og háleitast er af öllu í opinberan kristindómsins, friðþægingunni, sem liggr í dauða Jesú, og ávexti hennar, eins og hann af frelsaranum sjálfum í hans mestu fylling er afhentr kristinni kirkju í þessu sérstaka náðarmeðali, kvöldmáltíðarsakramentinu, og af kirkjunni í hans nafni borinn á borð fyrir gjörvallan hóp safnaðarlimanna,þá er þó auðvitað ávallt að hafa það hugfast, að þetta verðr aldrei skilið til fulls nema með hjartanu. Skynsemi mannsins ein út af fyrir sig getr aldrei gjört sér grein fyrir því, sem er dýpst, eða háleitast, eða helgast í lífinu eða tilverunni. Það eru fastákveðin takmörk, sem hún fær aldrei út yfir komizt, hversu mikilli orku sem hún

heitir. Og sérstaklega er það eitt svæði í lífstilverunni, sem hún getr aldrei rannsakað til þess að komast í skilning um,—ákaflega víðtækt og þýðingarmikið svæði; en það er svæði það, sem eg vil kalla *ríki elskunnar eða kærleikans*. Til þess að nokkur skilningr fáist á því svæði eða því ríki, verðr hjartað—samvizkan—endilega að koma til sögunnar. Að skilja elskuna eða kærleikann manna á milli er ómögulegt nema með hjartanu. Eigingirnin er stundum kölluð elska. Að halda upp á einhvern mann að eins í því skyni að hafa af því auðvirðilegan stundarhag—það gjöra sumir og hafa það svo fyrir satt, að þeir elski þetta hitt mannslíf. Slíka elsku, ef elsku skyldi kalla, getr skynsemin skilið, en þetta er engin sannkölluð elska. Það er blátt áfram óhæfa að kalla annað eins elsku. Í allri sannri elsku er það aðal-atriðið, sem nákvæmlega er gagnstætt eigingirninni,—sjálfafneitan, fórn, fúsleiki hjartans til að leggja nokkuð mikið í sölurnar fyrir hið annarlega mannslíf, sem elskan gengr út yfir, jafnvel að leggja allt í sölurnar, alla sína krafta, alla sína stundlegu velferð, allt sitt líf. Svona er föðurog móður-ástin, þegar hún er alsönn. Svona er ást góðra barna foreldrum þeirra til handa. Svona er ást sannkallaðra elskenda. Svona er vina-ástin, eins og milli þeirra Davíðs og Jónatans. Svona er föðurlands-ástin í sinni fegrstu og fullkomuustu mynd, eins og hjá þeim Mósesi á gamla testamentisins tíð og Páli postula á nýja testamentistíðinni—ástin til ættmenna þeirra eftir holdinu, Ísraelsmanna. Þessi elska, hin sannkallaða elska, sem á tungumáli kristindómsins heitir kærleikr, verðr að eins skilin með hjartanu. Skynsemin fær aldrei til eilífðar skilið hana. Kristindómrinn er nú vitanlega á undan öllu öðru kærleikans trúarbrögð, opinberan þess guðs, sem er kærleikrinn, opinberan guðs að því leyti sérstaklega, sem hann lætr kærleik sinn streyma inn í syndugan mannheim hér á jörðinni honum til eilífs frelsis. Miðpunktrinn eða hjartað í þeirri opinberan kemr fram í hinni stuttu alþekktu ritningargrein: „Svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldr hafi eilíft líf.“ Og því nær sem maðr stendr þessum miðpunkti opinberunarinnar, brennipunkti hinnar frelsandi elsku guðs,—með öðrum orðum friðþægingarlærdómnum,—því minna verðr

þar skilið með skynseminni, en því skiljanlegra þar á móti allt fyrir hjartað, hjarta, sem að einu leyti syndaástandsins vegna þráir guðlega fyrirgefning og frelsan, hungrar og þyrstir eftir náð guðs, og í annan stað veit, hvað það er af eigin persónulegri reynslu, að elska eitthvert annarlegt mannslíf óeigingjarnri elsku, elsku sjálfsafneitunarinnar.

þegar um kvöldmáltíðarsakramentið er að ræða, þar sem á leyndardómsfullan hátt er af drottni sjálfum borinn fram allr kærleikr guðs í Jesú Kristi, gjörvallr kærleikr friðþægingarinnar, guðs sonr að því leyti, sem hann fórnar sjálfum sér með píslardauða sínum fyrir syndugt mannkyn, þá liggr því í hlutarins eðli, að sú sakramentisgjöf verðr að eins skilin og rétt metin af hjartanu, en alls ekki af skynseminni. Hjartalaus skynsemin steytir sig æfinlega á þessu dýrmæta náðarmeðali, kvöldmáltíðarsakramentinu. En það er að eins fyrir þá sök, að hún steytir sig—hvort sem hún kannast við það eða ekki—jafn mikið á leyndardómi friðþægingarinnar eða endrlausnarinnar í Jesú Kristi,—og á leyndardómi hinnar óeigingjörnu elsku, kærleikans, yfir höfuð. Sá, sem hafnar kvöldmáltíðarsakramentinu fyrir þá sök, að þar er leyndardómr fyrir mannlegt hyggjuvit, skynsemina, hann verðr, ef hann vill fylgja þeirri röksemdafærslu út í æsar, af sömu orsök neyddr til að kasta frá sér kristindóminum í heild sinni, því vitanlega er hann í sínu innsta og dýpsta eðli fullkominn leyndardómr. En til þess að vera sjálfum sér samkvæmr þyrfti sá maðr að gjöra enn þá meira. Hann þyrfti að kasta frá sér trú á allan sannan, óeigingjarnan, sjálfsafneitanda kærleik manna á meðal hér á jörðinni. því að allr slíkr kærleikr er líka í sínu innsta og dýpsta eðli fullkominn leyndardómr.

Myndi þá ekki líka það, hve ófús almenningr safnaða vorra í nútíðinni er til þess að ganga til altaris, að einhverju leyti standa í sambandi við skort á kærleik hjá því sama fólki, skort á kærleik ekki að eins til guðs, sem enginn fær séð nema með augum trúarinnar, heldr líka skort á kærleik til manna, og það jafnvel mannanna, sem hverjum fyrir sig eru allra nákomnastir? Alveg vafalaust. Flestir myndi líklega heldr vilja segja, að altarisgöngufæðin hjá oss standi í sambandi við trúarveikleik eða trúarskort manna. En frá kristilegu sjónar-

miði kemr allt fyrir eitt. Kristin trú og kristilegr kærleikr verða ekki að skilin í reyndinni. Ef efni kristindómsopinberunarinnar er í sannleika viðtaka veitt af trúuðu hjarta, þá veitist þeim sama manni um leið nýr kraftr til að elska eins og aldrei áðr. því efnið í opinberan kristindómsins er kærleikr, fylling hins guðlega kærleika, sem kemr fram í því, að hinn heilagi guð í himninum elskar mennina vanheilaga, rangláta, syndfallna, meðan þeir enn þá eru óvinir hans, elskar þá svo mikið, að hann í syni sínum elskulegum gjörist maðr og fórnar lífi hans í píslarsögunni makalausu. Sé trúin lítil hjá mönnum á þessa opinberan, þessa guðlegu fórnargjörð, þá er kærleikrinn út af henni að sjálfsögðu líka lítill. því kærleikrinn í kristilegum skilningi er sama sem líf trúarinnar, trúin sem lifandi trú. Svo þeir, sem fúsir eru að játa, að það sé trúarveikleika þeirra að kenna, að þeir finna ekki meiri hvöt hjá sér en þeir gjöra til að vera til altaris, ætti þá líka að vera fúsir til að játa, að þetta sé eigi síðr því að kenna, að þeir hafa svo sorglega lítið af þeirri óeigingjörnu elsku til annarlegra mannslífa, sem á tungumáli kristindómsins heitir kærleikr.

En, vinir mínir, í og með kvöldmáltíðarsakramentinu er oss syndugum mönnum einmitt gefin sú sterkasta hvöt, sem unnt er að fá úr nokkurri átt, til þess að láta hjarta vort fyllast kærleika. því þar kemr drottinn persónulega með öllum kærleika sínum til hvers einstaks manns, sem krýpr við kvöldmáltíðarborðið, sama ómælilega kærleikanum sem knúði hann til þess forðum að ganga út í píslarsöguna, réttir hann að hverjum fyrir sig og ánafnar hann honum til eilífrar eignar, til fullvissu um fyrirgefning syndanna, til óþrjótandi sæluuppsprettu, til trúarstyrkingar, til kærleiksstyrkingar, til vonar, til friðar, til eilífs lífs. Ef menn að eins væri sér þess nógu einlæglega meðvitandi, að þeir í andlegu tilliti þyrfti við lækningar, í fullri alvöru hefði þrá eftir meira ljósi ofan að yfir sálir sínar, sterkari trú, meiri kærleika, þá myndi sú meðvitund, sú tilfinning, sú þrá alveg vafalaust leiða til þess, að þá færi hjartanlega að langa til að vera til altaris og fullnægði þá líka auðvitað þeirri hjartans löngun iðulega í verkinu.

það hafa nú víst flestir, ef ekki allir, kristnir menn af

voru fólki það réttilega á meðvitundinni, að fylling hinnar guðlegu náðar í Jesú Kristi liggi í kvöldmáltíðarsakramentinu. Því naumast mun neinn þeirra telja annað en rétt, gott og blessað, af þeim, sem liggja á sóttarsænginni með dauðann eftir miklum líkindum í nánd, að beiðast þessa náðarmeðals og neyta þess í því sérstaka ástandi. Og ef hér er rétt til getið, þá ber það óneitanlega vott um sannfæring eða að minnsta kosti hugboð kristins fólks vor á meðal almennt um það, að kvöldmáltíðarsakramentið sé eins mikils virði og æfinlega hefir kennt verið af kirkju vorri. Og það allt eins fyrir því, þótt að eins tiltölulega fáir noti þetta náðarmeðal í heilbrigðu eða sjúku ástandi eftir því, sem nú er komið vorum kirkjulega hag. Það að hafa þessa sannfæring eða þetta hugboð um verðmæti kvöldmáltíðarsakramentisins ætti nú vissulega að knýja menn til altarisgöngu, gjöra mönnum ljúft og ómissanda að vera til altaris. En það leiðist þó yfir höfuð að tala ekki þannig út í reyndinni. Og sú mótsögn hygg eg að stafi að all-miklu leyti af misskilningi á kenning nýja testamentisins um sakrament þetta.

Vér heyrðum í texta vorum, skírdagspistlinum, þessi sterku aðvörunarorð postulans kvöldmáltíðarnautninni viðvíkjandi: „Hver sem etr þetta brauð og drekkr af kaleik drottins óverðuglega, sá verðr sekr við drottins líkama og blóð.“ Og enn fremr: „Sá, sem óverðuglega etr og drekkr, hann etr og drekkr sér til dómsáfellis.“ Það hefir oft í kirkjunni verið lögð ákaflega einstrengingsleg áherzla á þessi postullegu orð. Og sökum þeirrar áherzlu hefir eðlilega risið upp í huga almennings reglulegasta oftrú, sem vel mætti kalla hjátrú, á altarissakramentinu,— þannig löguð oftrú eða hjátrú, að maðr þurfi að vera svo ákaflega sterktrúaðr, með svo afar heitri iðrunartilfinning, svo brennandi í anda, í einu orði svo fullkominn í kristindómslegu tilliti, til þess að geta talizt verðugr fyrir þetta náðarmeðal. Og sé maðr sá, sem gengr til altaris, ekki á þennan hátt verðugr, þá sé yfir hann fallinn dómr, drottinlegr fordæmingardómr. Og til þess að komast hjá slíkum hræðilegum dómi sé því víst fyrir flesta varlegast, að vera alls ekki til altaris. Það þarf nú ekki annað til þess að sannfærast um, að eitthvað meira en lítið muni veilt í þessari röksemdafærslu,

en kynna sér söguna um það, sem gjörðist á skírdagskvöldið forðum, í hinum fjórum guðspjöllum nýja testamentisins, ástand lærisveinanna þá, og framkomu frelsarans bæði í orði og verki andspænis því ástandi. Eg hefi talað um það, að Jesús leyfði, að Júdas— þótt hann væri með svikaráðið í huganum—væri með í hinu heilaga borðhaldi, til þess að gefa honum þá sterkustu hvöt og hjálp, er til gat verið, til þess að flýja burt af barmi glötunarinnar. En líka hinir lærisveinarnir allir, þótt þeir í sannleika trúðu á frelsarann og elskuðu hann, voru með mjög veikri og ófullkominni trú, eins og meðal annars sýndi sig í því, að þeir meðan á sjálfu borðhaldinu stóð tóku til að þrátta um það sín á milli, hver þeirra væri mestr. Og svo seinna um kvöldið, þá er Jesús var handtekinn í Getsemane, var trúar- og kærleiksstyrkrinn ekki meiri en það, að þeir flýðu allir frá meistaranum. Og enn seinna sama kvöldið kemr fyrir hin grátlega afneitan Pétrs, hans, sem þó vitanlega var einna helztr og mestr í lærisveinahópnum. Allt þetta vissi Jesús fyrir, og þó veitti hann þeim öllum hina miklu kærleiksgjöf kvöldmáltíðarsakramentisins. Þetta bendir þó sannarlega á nokkuð allt annað en að menn þurfi að vera í einhverju sérstaklega fullkomnu trúarástandi til þess að mega ganga til altaris.

Aðvörunarorð postulans um verðugleik eða óverðugleik þeirra, sem neyta kvöldmáltíðarsakramentisins, hljóta því að vera stórkostlega misskilin, þegar út úr þeim er fengið, að að eins menn með fullkomnum kristindómi eftir því, sem kalla mætti, megi að ósekju ganga til altaris. Enda þarf ekki annað en að lesa með athygli kafla þann allan af 11. kap. fyrra Korinþubréfsins, sem skírdagspistillinn er partr af, til þess að sannfærast um, að postulinn er um allt annað að tala, en veikleika í trúnni eða kærleikanum almennt, þegar hann er að vara menn í Korinþuborgar-söfnuðinum við að neyta kvöldmáltíðarinnar óverðuglega,

Menn höfðu vitanlega á þeirri tíð enn þá ekki í kristninni neinar kirkjur til að halda sínar guðsþjónustur í. Guðsþjónusturnar að kvöldmáltíðarhaldinu meðtöldu fóru fram í heimahúsum. Nautn altarissakramentisins stóð í sambandi við almennt borðhald í því eða því prívathúsi safnaðarlimanna, hinar svo kölluðu kristnu kærleiksmáltíðir, sem allir gestir tóku sam-

eiginlegan þátt í og lögðu eftir föngum sinn skerf til. Og þá gat það skiljanlega komið fyrir, að brotið væri í ýmsu á móti góðri reglu, að raskað væri hinni heilögu alvöru trúarinnar, ekki gætt hófs o. s. frv. við þessi kirkjulegu borðhöld. Og það er nú einmitt þetta, sem postulinn í hinum áminnzta bréfkafla sýnir að kom fyrir í söfnuði Korinþumanna, vítir svo harðlega fyrir og varar svo sterklega við. „þegar þér komið saman", segir postulinn þar meðal annars, „þá er það ekki til að halda drottins kvöldmáltíð (sem þó auðvitað var tilætlanin), því hver tekr sína fæðu fyrirfram fyrir sig, þegar til borðhaldsins kemr, svo að einn er svangr, en annar neytir í óhófi." Svona var óreglan, hið syndsamlega alvöruleysi, sem hann er að víta fyrir. Og þegar í þessum orðum postulans það er nefnt—samkvæmt íslenzku biblíunni—„að neyta í óhófi", þá liggr í því enn þá meira en orðalagið á vorri tungu bendir beint til. Samkvæmt frumtextanum gríska var þetta óhóf í því fólgið, að sumir höfðu beinlínis drukkið sig drukkna við máltíðir þessar, voru í ölvuðu ástandi til altaris. þetta er þá líka ein af hinum skýlausu sönnunum fyrir því, að það hafi verið áfengt vín, sem í fyrstu kristni var haft við kvöldmáltíðina, en ekki óáfengr vínberjalögr eins og sumir nútíðarinnar bindindisformælendr í sinni vandlætandi fávizku eru að telja fólki trú um. En eg sleppi því atriði í þetta sinn. því aðalatriðið fyrir oss nú er það, að óverðugleikinn, sem postulinn í texta vorum er um að tala og segir um að gjöri menn seka við drottins líkama og blóð, eða komi því til leiðar, að menn eti og drekki sér til dómsáfellis, var einmitt fólginn í þessu hraparlega athæfi, að drekka sig drukkna í sambandi við sakrament kvöldmáltíðarinnar. Af þessu leiðir auðvitað ekki, að ekkert annað en þessi sérstaka ofnautnarsynd gjöri menn óverðuga fyrir sakramentið. En hitt er auðsætt, að þessi varnaðarorð eiga engan veginn að skiljast eins og þau svo oft eru skilin, þannig, að menn þurfi að vera í svo sérstaklega fullkomnu trúarástandi til þess að ósekju að mega vera til altaris.

Sannleikrinn er, að það er hvorki meira né minna heimtað af mönnum í sambandi við kvöldmáltíðina heldr en í sambandi við hin önnur náðarmeðul, sem frelsarinn hefir afhent kristinni kirkju, guðs orð og skírnarsakramentið. Og það af þeirri ein-

földu ástœðu, að það, sem fram er boðið syndugum mönnum í öllum þessum náðarmeðulum er í rauninni nákvæmlega hið sama: hjálpræðið í persónu Jesú, hann sjálfr, frelsarinn. Ef þeirri gjöf er hafnað eða illa með hana farið, þá er það að sjálfsögðu æfinlega stórkostlegr ábyrgðarhluti;—menn leiða yfir sig dóm með því. Sá ábyrgðarhluti er ekki meiri eða sá dómr er ekki þyngri í sambandi við eitt náðarmeðalið en annað. Að hræðast þann ábyrgðarhluta eða þann dóm í sambandi við kvöldmáltíðina, og að ganga þar af leiðanda ekki til altaris, en þar á móti ekki í sambandi við skírnina og orðið, er fásinna, blátt áfram heimskuleg hjátrú. Hugsum um ábyrgðina, sem til vor allra kemr með kristindóminum — eftir því, sem Jesús sjálfr vottar: „Sá, sem forsmáir mig og meðtekr ekki mín orð, hefir þann, sem dœmir hann. Það orð, sem eg hefi talað, mun dœma hann á efsta degi“ (Jóh. 12, 48). Og úr því að þetta orð á annað borð er til manna komið, þá getr enginn losnað við ábyrgðina, sem því er samfara að hafa fengið það til sín, eða sloppið við dóminn, sem frelsarinn er hér um að tala, með því að loka fyrir því eyrum sínum eða forðast að koma á þá staði, þar sem það er um hönd haft, flýja út úr kirkjunni. Og jafn-lítið geta menn þá líka auðvitað flúið undan ábyrgðinni eða dómnum, sem stendr í sambandi við kvöldmáltíðarsakramentið, með því að vera ekki til altaris. Eina úrræðið úr því að vér höfum fengið kristindóminn til vor er að nota samvizkusamlega náðarmeðul drottins öll, til þess að kristindómrinn í heild sinni verði oss ekki til sakfellingar, heldr um tíma og eilífð til blessunar, guðlegrar huggunar og hjálpræðis. Og þar sem blessanin er svona mikil, þá ætti þetta úrræði að vera ljúfari skylda en allt annað.

---

## Þýðing þess og gagn að vera meðlimr kirkjunnar.

Eftir E. Skavlan, prest í Norvegi.

Úr *Luth. Kirketidende.* Snúið hefir séra Friðrik J. Bergmann.

---

2. Enn fremr má benda á þetta sem gagn af að heyra kirkjunni til: Mátt félagslífsins til að gefa andlegu lífi einstak-

lingsins festu,—stöðugra viðnám á grundvelli guðs orðs, ljósara skilning á sannindum þess, meiri andlega varfœrni og andlegan þroska. Auðveldlega getr andlegt líf einstaklingsins fengið á sig blæ stefnuleysisins og hviklyndisins, orðið eins og reyr af vindi skekinn. Til er gamall málsháttr, sem segir: „Hér er margra veðra von.“ þannig er það líka í andans heimi. Einnig þar er von á ýmiskonar veðrlagi og vindastefnum. Jafnvel í þeim hlutum, sem heyra guðs ríki til og ætla mætti að hefði meiri festu og stöðugleik, breytast meiningar manna, skilningr og skoðanir, ekki einungis um hið lítilfjörlega, heldr jafnvel oft um það, sem mestu varðar. Stundum er hin andlega veðrstaða úr þessari átt, stundum úr annarri. Stundum stendr súgr inn til vor úr átt vantrúarinnar. Stundum sendir drottinn heilnæman vindblæ úr átthögum trúarinnar. Ný félög myndast líka með sérstakan boðskap. Ef vér stöndum nú öldungis einmana gagnvart öllu þessu, gæti það auðveldlega orðið hættulegt fyrir hið andlega líf vort. Veðrabrigði tímanna myndi ekki láta vera að hafa áhrif á oss. því allir erum vér tímans börn og látum strauma tímans hafa meiri áhrif á oss oft og tíðum en vér vitum sjálfir af. þess vegna hefir það svo mikla þýðing fyrir oss, að heyra kirkjunni til, geta notið hjálpar hennar og fulltingis, hlýtt ráðum hennar og aðvörunum. Kirkjan er oss þá „móðirin“, sem getr hjálpað oss með hinni auðugu lífsreynslu sinni og andlegum þroska. því kirkjan hefir lifað eigin lífi sínu, eins og hver einstaklingr. Saga kirkjunnar getr sagt oss frá öllu, sem fram við hana hefir komið, baráttunni, sem hún hefir orðið að standa uppi í, og reynslutímunum, sem yfir hana hafa liðið. Kirkjan getr líka sagt frá því, hve beiska ávexti það hefir borið henni og hve sárlega hún hefir mátt gjalda þess, ef hún einhverju sinni hefir látið leiðast út af hinum trygga grundvelli sannleikans. Skyldi ekki kirkjan hafa auðgazt af öllu þessu? Skyldi allt þetta hafa farið árangrslaust fram hjá henni? Nei, allt hefir þetta borið ávöxt, meiri andlegan reynsluþroska, meiri hœfilegleika til að dœma og rannsaka. Kirkjan hefir tileinkað sér andlegan þroska, sem verða má einstaklingunum til hins mesta gagns.

Kirkjan hefir geymt ávextina af baráttu sinni og rannsóknum í hinum sérstöku félagsjátningum sínum. Árangrinn

af mörgum hugleiðingum og mörgum reynslustundum felst þar eins og í einni heild. Kirkjan hefir því bæði leiðbeining og trygging í játning sinni og um leið hver einstaklingr innan hennar. Vér, sem heyrum hinni evangelisku kirkju til, eigum að hafa vit á að láta oss þykja vænt um játning vora. Því vér vitum, að hún er áreiðanlegr leiðtogi. Ekki ættum vér að lata koma oss til að skoða hana með yfirlæti eins og eitthvað, sem hrumt er orðið af elli; ekki heldr álíta það andlegt þröngsýni að varðveita lotning og traust til hennar.

Í nánu sambandi við það, sem nú hefir verið tekið fram, felst sú þýðing kirkjunnar fyrir einstaklinginn, að varðveita það, sem kallað er hið sögulega áframhald, að halda hinum sögulega þræði föstum gegnum aldirnar, að tengja fortíð og nútíð kirkjunnar saman og halda hinu andlega sambandi við frá einni kynslóð til annarar. Í borgaralegum félögum er þetta álitið mjög þýðingarmikið. En það hefir líka þýðing í guðs ríki. Ein kynslóð sáir; sú, sem á eftir kemr, sker upp. Kirkjufélagið er nánasti erfingi alls þess, sem afburðamenn þess, fulltrúar drottins í félaginu, hafa eftir sig látið sem ávexti af lífsstarfi sínu. Þegar vér í hinni evangelisku lútersku kirkju vorri lítum aftr fyrir oss gegnum aldirnar, frá siðbótartímanum og þangað til nú, þá mœtir auganu löng fylking af trúlyndum hetjum og duglegum verkamönnum alla leið frá Lúter og niðr til vorra tíma. Allir hafa þeir hjálpazt að til að safna þeim andlega höfuðstól, sem kirkjufélag vort hefir sem sérstaka eign og vér njótum góðs af.

3. Þýðing kirkjunnar fyrir einstaklinginn er enn fremr í því fólgin, að félagið beitir nauðsynlegum aga innan takmarka sinna. Móðurskylda kirkjunnar kemr hér aftr í ljós. Móðirin á að beita aga við börnin sín. Það hefir eigi litla þýðing fyrir líf hvers kristins einstaklings, að fyrirhyggjusömum aga sé beitt í félaginu; að einstaklingrinn veit, að félagið hans hefir vakanda auga á honum, svo að stórsyndir og afbrot fá eigi orðalaust að haldast við. Áminnztum einstaklingi er andlegt gagn að því, að sérplœgni hans eða öðrum ástríðum sé haldið í skefjum, ekki einungis af innri aga guðs anda, heldr einnig af því félagi, þeirri móður, sem guð hefir sett honum til gæzlu. Vér minnumst líka þess, að móðirin hefir huggun fyrirgefning-

arinnar á eftir aganum handa þeim, sem iðrast. I þessu efni höfum vér í þjóðkirkjunni mjög mikið til að ásaka sjálfa oss fyrir. Þetta er ein af þjóðkirkjunnar veikustu hliðum, — til tjóns fyrir kirkjuna sjálfa ekki síðr en einstaklinga hennar. (Meira.)

## Næsta kirkjuþing.

Hér með auglýsist almenningi í söfnuðum hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vestrheimi, að ákveðið er, að *fjórtánda ársþing* þess, sem samkvæmt ályktan kirkjuþingsins í fyrra á að halda hér í bænum, skuli sett verða í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg föstudaginn 24. Júní næstkomanda. Áðr en þingið er sett fer í kirkjunni fram guðsþjónusta, sem á að byrja kl. 10 f. m. — Trúmála-atriðið sérstaka, sem rœða á á þessu þingi, er: *Hin kristilega líknarskylda og hvernig vér (kirkjufélagið) fáum innt hana af hendi.* Inngangsrœðuna um það mál heldr væntanlega stúd. theol. Runólfr Marteinsson.

Söfnuðir þeir, sem senda fleiri erindsreka en einn til kirkjuþingsins, gjöri svo vel að útbúa hvern þeirra fyrir sig með sérstöku vottorði um lögmæta kosning hans, í staðinn fyrir sameiginlegt vottorð fyrir þá, er kjörnir hafa verið.

Winnipeg, 11. Maí 1898.

Jón Bjarnason,
forseti kirkjufélagsins.



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.